# Fáord
# Eptirmæli
sálugu Jómfrúr
# Þorbjargar Fridriksdóttur.

Framsøgd
vid Hennar Jardarfør
ad Vídidalstúngu,
þann 16da Janúarii 1819.



Beitistødum, 1819.
Prentud af Faktóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfjord.



Lagid: Þier, Drottinn! þacka eg.

1.

Allt kenna manni má:
Ad manns sé vitska rír;
Hitt eins: ad haudri á,
Hann sist til lengdar býr.
Sá er vís hér ad hyggur
Og huga sem fyrst til himins snýr.

2.

Víst er manns hérvist hál,
Hætt gjörvallt lífsins skeid;
Líkama — synd — og sál
Særir margfaldri neyd;
Er lífs = frá veggu = vegar
Freistingum kasinn fram ad deyd.

3.

Fyrst þannig liggur lífs-
    Leid gégnum voda sjó,
Er daudinn endíng kífs
    Uppbyrjan lífsins þó;
        Skyldi þá hug vorn hrella
    Ad frelsast af mædu' en finna ró?

4.

Má ecki segjast sæll
    Sá, hédan farinn er
Til himins? hvar yndæll
    Hagur um eilífder
        Allra Guds barna bídur,
    Eptir hérvistar hretskúrer.

5.

Sælunnar sérlegt happ
    Sæl Þorbjörg Fridriks Jód,
Hlaut, þegar hédan slapp;
    Henni var lausnin gód!
        Hrjád af hérvistar mædu
    Rádþrota daudans = dyr vid stód.

6.

Tuttugu og sex år traust
    Tæmt hafdi sorga-skál;
Ætíd í huga hraust
    Himins til vendti sál;
        Lángt þó ej lífstóm hlyti
    Henni á lausn var meir' enn mál.

7.

Heilsunnar hardann brest
    Hafdi, uns líf burtrann.
Slíkann kross bar þó best
    — Bera því vitn'eg kann —
        Þolinmód lífs ad lokum,
    Sælann þolgædis sigur vann.

8.

Mót daudans makt ej má
    — Mátti þad sannast hér —
Grædslu í gørdum fá;
    Gud samt þad auglýser,
        Hrygdin nær hardast þreyngir,
    Nádin hans líka nálæg er.

9.

Það, sem til mædu mest
Mørgum hér siefna finnst;
Horfir til bata best,
Bót þar við eilíf vinnst
Þegar stríð af er staðið,
Ecki er stríðsins mædu minnst.

10.

Gledjum oss þar við þá:
Þeir eru frelsaðir
Andstreymi øllu frá,
Um eilífð fullsælir
— Jesú forþénan fyrir —
Oss sem að vóru ástkjærir.

11.

Sízt skulum syrgja þann,
Sorga- og hættu-fek
Sem er í sælu-rann;
Sú gledi-vonin hlý.
Oss gèfst, að aptur fáum
Þeim að sameinast sælu í.

12.

Hvad stodar hrygda-qvak
    Heims-búa? Utvalder
Sizt merkja sér á bak
    Svoddan, Þvi gladværder
        Englanna yfirtaka.
    Best þvi ad vona' og bida er.



Vend. híngad. auga.
Vegfari.
Skodadu. allsherjar.
Skapadægur.
Enginn. er. ſvo. frækinn.
Ad. falli. verjiſt.
Þegar. fjörbrjótur.
Flejni. lyptir.
Láttú. þeſsi. ſannindi.
Lejd. þér. víſa.
Svo. fáirdu. víslega.
Ferdum. hagad.
Laung. er. ej. lejdin.
Lídur. hún. ódum.
Sí-vidbúinn. ſértu.
Senn. mun. á. þig. kallad.

G

  

